NÝTT

# STAFRÓFSKVER

HANDA

# BÖRNUM.





ÚTGEFENDUR:
Fb. STEINSSON J. BORGFIRÐINGUR.
1862.

## HLJÓÐSTAFIR.

a á e è i í o ó u ú y ý æ ö

au ei ey.

ö æ ý y ú u ó o í i è e á a

au ei ey.

## SAMHLJÓÐENDUR.

p b f v m k g j h x t

pje bje eff vaff emm ká ge joð há ex tje

d ð þ s z l r - n

dje eð þorn ess seta ell err enn

n r l z s þ ð d t x h

j g k m v f b p

## UPPHAFSHLJÓÐSTAFIR.

**A Á E I Í O Ó U Ú Y Ý**

a á e i í o ó u ú y ý

**Æ Ö Au Ei Ey**

æ ö au ei ey

## UPPHAFSSAMHLJÓÐENDUR.

**P B F V M K G J H X**

p b f v m k g j h x

**T D Ð Þ S Z L R N**

t d ð þ s z l r n

---

| | |
|---|---|
| Grannir hljóðstafir: | **a e i o u y ö** |
| Breiðir hljóðstafir: | **á è í ó ú ý æ au ei ey** |
| Varastafir: | **b f m p v** |
| Gómstafir: | **g h j k x** |
| Tannstafir: | **d ð l n r s t z þ** |

---

## STAFRÓFIN Í VANALEGRI RÖÐ.

a á b d ð e f g h i

í j k l m n o ó p r

s t u ú v w x y z

þ æ œ ö. (c q).

A Á B D Ð E F G H

I Í J K L M N O Ó

P R S T U Ú V W

X Y Ý Z Þ Æ Œ Ö.

(C Q).

## ATKVÆÐIN.

1.

af am ap ag ak ax að al an ar as
ám áð ál áu ár ás át
ef eg ek ex eð el en er et
ið il in ir is ís
of op og ok ot óf óm óp ók óð ól ós
um ug uð un ur úf úð úr út
yf yð yl ys ýf ýl ýt
æf æp æk æð æl ær æs æt
öf öm öp öx öð öl ön ör ös öt
aum aug auk auð aul aur aus
eig eik ein eir eit eyk eyð eyr eys,

2

bý bæ fá fje fæ má mó mý gá há hó
hæ hý já jú kú dá dó dý lá ló ná nje
nú ný næ rá ró ræ sá sje sí sú sæ tá
tó tæ þá þó þú þý mey vei gey hey
dey nei sei þau þei

3.

bak bað bar bág bál bás bát fax far
fat fát mas mat mál más pál pár var
gaf gap gat gát haf hag hár hás kaf

kál dag dal dáð lag lax las lág lán
lás nám náð nál rak ráp ráð rás sag
sat sál sár tak tal lág táð það þar þáð.
ben ber fen fet fjeð með mjer vef veg
vek veð vel ven vjer gef geð get hef
kem hjer hjet tem lep tek les ljek ljeð
ljet nef nes net ref rek sef sem sel set
sjeð sjer tef tek tel þek þel.
bið bil bit bít fis fit mig mín við vil
vin vit vjek víð vín gil hik hið hít lið
ein lit líf lím líð lít rif rim ríf ríð rís
sig sin sín sit tín tin þig þið þil þín.
boð bók bón for fór fót moð mók mór
von vor vot goð góð góm hug húð hús
jók jól jós kom kok kot kól kór dóm
lof lok lóð not nóg nón roð rot róm
rós rót son sól sót tog tók þol þor.
búk búð fum fúl fús mun múr mús gul
gúl kul kút rúm sum súr tug tún þur.
byr býð býr fyr gýs kyn kýr kýs dyl
dyr dýr nýr nýt ryk ryð rýk sýp sýg
sýð þýð þýt.

bæn bær væg væn gær læt næm nær
ræð sæl sæt tæp tær þæg þær.
böl föl föt möl mör pör vön vör kör
löm löð lön löt nös röð sög söl.
baug bauk baun fauk maur kaup kaun
lauf laus laut rauð raun.
bein leit mein meir meis vein veit geit
heit leið sein þeim þeir meyr deyr neyð

4.

blá blý brá brú flá flý flæ frá frú fræ
mjó gjá glæ grá hjá hjú hlje hló hlý hnje
hrá hræ kló knje ljá sjá sjó sjö smá spá
spje svo ská skó slá sló sný stje stó
tjá tvo tvö trje þjá því þrá þrje þrí.

5.

hlað blár flag flár glas hlað klár blek
bljes glað gler hleð slis slít klíp hlið
hlíð fils blíð blóð blóm flot flóð glóð
klór slóð slór flug flyt flýg flýt hlýt klýf
glær blær flöt bjór fjúk fjöl fjör mjór
mjúk mjög gjöf kjör kjöt djúp ljón ljós
ljót ljár rjóð sjón sjór tjón þjóð þjón

þjöl hjón hvað hval hvar hver hvet hvít
kvað kvak kvef kvel kver kvöl dvel dvín
dvöl svar sver svik svið svík tvær þvöl
hnfg hnút knár snar snið snfð snót brak
bráð fram gras grár gref grjet hrat[hret
krap krás kref krem dreg þráð brek brim
brík gríp hrip hríð hrís hrít trjen þrír.
blaut hlaut hlaup bleik hleip kveik keim
tveir brauð breið draum draug hnaus
spaug skaut skeið.

6.

agg ann áll áss átt egg ill inn odd oss
óss ótt upp ull urr ýtt ætt öll autt einn
eitt eydd.
afl amt agn arf arm arg ark álf eld erm
ern iðn ilm ofn opt orf orm org orð ógn
ólm ósk ung und urð úlf ögn öld örk
örn ört eign eins eymd eygð eykt.

7.

gabb happ kapp fall bann mann hann
kann þann hatt hátt páll háll fátt mátt
legg vegg bekk þekk gekk fjekk hjekk

renn senn sess þess dett ljett rjett ligg fimm sigg finn minn vinn hinn kinn þinn mitt hitt þitt poll holl höll foss koss nótt þótt full gull fúll gúll þunn dygg tygg hæll sæll vænn kænn bætt sætt löpp högg dögg lögg dökk sökk þökk völl höll fönn tönn kött.

dautt heill beinn neinn seinn lausn rausn raust heipt feigð heild deild beisk leyft leynt heyrn geymt leyst.

8.

fjall kjass mjódd kjóll ljótt mjöll sjálf gjörð hjörð blítt bratt brenn brunn brodd brúnn flakk flekk flokk frjett plagg glott glögg grunn grett grýtt grænn hvamm hvass hvell hvönn hnapp hnoss hratt hrátt hress hross hrædd kvabb kvenn klapp klett klædd kropp kross drakk drykk smátt smekk spann spónn spönn svell skall skegg skinn skott skökk slapp slepp stjett stutt trygg þvott þremm þrótt.

blautt breitt hreinn sveinn sveitt steinn
þreytt breisk hraust traust.

9.

allt illt álpt efst elst ólmt ungt æðst
rammt dimmt byggð dyggð gyllt hollt
fullt þunnt misst kysst gafst baðst hefnd
nefnd vefst tefst megnt telst verst fyrnd
hyrnd fyrst þyrst lægst heimsk meiðsl.

10.

brennd flennt glennt grannt grimmt
hvasst hneppt hryggð kreppt skammt
spillt skakkt skemmt sleppt snemmt
snilld stinnt styggð tvennt tryggð tryllt
þrennt fremst gleðst hverft hrekst þrífst

11.

gljá skjá snjó þrjá þrjú skrá strá fljót
prjón grjót hljóm drjúg smjör spjót
skrif skref skríð skrín skræk strik stríð
strok strút strýk skraut skreið straum.

12.

skjall skjótt snjall brjóst frjáls spjald
skjöld sprett skrokk spreng spring skript

strönd stromp frjálst hljópst srengd
streymst skrjáf skrjóð strjáll minnst
leggst reimst þynnst sprakkst.

13.

af-i ap-i ag-a ak-a an-a ar-i as-i at-a
ám-a áð-i ef-i eð-a ok-i ot-a un-a úð-i
ux-n úf-i ýf-i ýt-i æf-i æk-i æp i æs-a
aug-u auk-a aul-i aus-a eig-a eið-i
eyð-a eyr-a eys-a gái góa hóa húu
lóa lúi róa sái sóa fúi.

41.

am-ar ag-ar ax-ir al-ir at-ar áð-ur ár-ar
ef-ar el-ur et-ur ís-ar of-ar óð-ir ór-ar
ut-ar yf-ir yð-ur yt-ir æð-ar aum-ir
auð-ar eik-ur eit-ur bæir fáar fúin mó-
ar háin kain húur náið nýir ráin heyið.

15.

bal-i bat-i báð-ir bog-ið bol-ur bót-in
bör-ur bæk-ur fat-a fet-ar fip ar fíf-an
fýk-ur fæð-ið fær-ið mag-ur mað-ur
mal-ar mel-ur mis-a mos-i móð-ur mýk-i
mýr-i mæn-ir píp-a vak-a van-in veð-

ur vet-ur vof-an vot-ur völ-ur var-ir gáf-um gát-um gol-an guf-an gæf-an göfug hak-a hat-ur hon-nm hót-a hús-ið hýs-i hæg-ur hæn-a jaðar jaki jata játa júgur kaka kátur kisa dætur latur leður lipur lifum lofað lýsir lækur nasir neðar niður notar næpa nýra rákir rek-um ríkur rúðan saga sáta sopi sumir sælan tugur týni þaðan þegar þúfa þýðir hangur daufur naumur seigur reykur.

16.

fol-an fæl-inn við-inn þol-inn kof-ann ket-ill lít-ill lyk-ill hef-ill gam-all hug-ull röðull þögull kaðall svæfill síðast laumast feiminn leiðist neyðist leynist.

17.

amm-a annn-ar ekk-i inn-i okk-ur ótt-i ugg-ar ykk-ur apt-ur aðrir ald-ur asn-i áln-ir efl-ist epl-in ept-ir ekl-a eng-in undir úlpa yrki æxli öðlast auðnast eitrið.

18.

pabb-i mamm-a vagg-an gadd-ur kepp-

ist penn-i henn-ar mess-a þerr-ir þess-i
þett-a mill-i lopp-inn sokk-inn sudd-i
sunnan hækkar heiðnin reizla geislar.

19.

blæðir hláka hlátur klakf gleði glíma
klórar fluga flýtir fjórir gjörir njóli rjómi
rjúpa hnýti kvæði glaumur hveiti breit-
ir skeifa þreytist.

20.

klæ-ar sjött-i blett-ur brekk-an glugg-
inn hvess-ir hlakk-ar hneggj-a hne-rr-i
klipp-ir drott-inn snemm-a snö-ggur
stakkar tryggur þrenning þrettán flaska
flóknir glaðnar hvelfing sneplar breytn-
in freisting kreistir sveifla.

21.

allr-a ekkn-a illr-a innr-i ökl-i aldr-ei
efnd-ir engr-ar engl-ar fetr-a undr-ast
yngr-i öldr-uð öngl-ar austr-ið eystr-i

22.

fimmt-i heppn-i dottn-ir galdr-ar lempn-i

gildr-a hindr-un horfn-ir þorst-i bólst-
ur byrgðir hyrndur hænsnin meiðsli

23.

drottn-ing skemmt-un slokkn-ar blindn-i
brýnsl-an flestr-a hleðsl-a hræðsl-a kristn-
in stefndir stirndi hreistrið.

24.

smjað-ur skjóð-a skrif-ar stríð-ir skrökv-a
þrjózk-a skvett-ist skvaldr-ið strjúp-inn
byggðri minnstu fyrnska dirfska þyngsli.

25.

ef-að-i öl-arn-ar öf-ug-ur ön-ug-ur bak-
að-i aum-ing-i bát-arn-ir búð-irn-ar föt-
urn-ar veg-irn-ir góm-arn-ir hól-arn-ir
kot-in-u deg-in-um dyr-un-um lif-and-i
lóf-arn-ir nál-arn-ar rað-irn-ar róm-ur-
inn ræn-un-a syn-irn-ir sög-in-a tog-
in-u þóf-arn-ir baun-ir-ar teym-ing-ur
kist-ill-inn væg-ast-ur fol-öld-inn for-
ing-i odd-vit-i apt-ast-ur and-að ist
ask-ur-inn eld-ur-inn ólm-and-i öfl-ug-
ur öldungis eyrnagull átumein æðarfugl

auragirnd einbirni einfeldni eyruggi hýbýli nágranni föðurleyfð góðlyndur gærkveldi hárgreiða dæmolaus ráðvandur reiðsokkur orðheldni erfiljóð ólgusjór.

26.

bagg-arn-ir vegg-irn-ir mátt-ug-ur hátt-að-i koss-arn-ir garð-ur-inn geml-ing-ur bitt-urn-ar bidl arn-ir þiðn-að-i sigl-ing ar fóðr-að-u hóst-að-i þuml-in-um sumar-ið ryðg-að-ur bækl-ing-ur lækn-ir-inn sökn-uð-ur seigl-ing-ur mann-grú-i gullhringur kurteisi sandorpnir beiskyrði.

27.

kjó-aru-ir gró-and-i spá-mað-ur spjehrædd-ur tvæ-vet-ur tví-læst-ur þrjá-tí-u þrí-tug-ur þrje-vet-ur hrút-arn-ir hveitikorn smíðatól blíðviðri glaðlyndi spariföt grasgefinn greiðvikni.

28.

flekk-irn-ir hnakk-ur-inn klett-arn-ir þrett-ánd-i krakk-arn-ir hrekkj-ótt-ur bless-að-ur hrukk-ótt-ur kvenn-mað-ur

kvillasamt grynningar skinnsokkar stokk-
bólginn snillingur stálpenni hnyklarnir
styrkleiki þrýstingur hreystiverk.

29.

álpt-irn-ar ungl-ing-ur yrml-ing-ur
eymsl-að-ur fimmt-ánd-i mennt-að-ur
fyrnd-inn-i fóstr-að-u handr-að-i kostn-
aður lopsefnin rumskaðist tunglöldin
krapsturinn hringlandi hrafnseggin kringl-
óttur tryggfastur.

30.

gljá-and-i skjá-glugg-i fljót-virk-ur brjál
að-ur grjót-hrúg-a smjör-skak-a hrjóstr-
ugur smjaðraðir skrúðningar sprengmóð-
ur felmtsfullur strengslinu skrjóðurinn
skrjáfaði strjálbyggður strjúpanum.

31.

ef-a-blend-i um-mæl-a-laust ým-i-gust-
ur ein-stæð-ing-ur mis-sýn-ing-ar mæl-i-
kvarð-i gam-an-sam-ur hag-an-leg-ur
jól-a-kert-in dán-u-mað-ur sum-ar-dag-
ur sól-ar-ljós-ið töl-u-staf-ir ull-ar-

vinn-a upp hafs-staf-ur arn-ar-ham-ur erf-is-drykkj-a erm-a-hnapp-ar iðn-is-mað-ur eyðslusamur fylgdarmaður verndarenglar reynsluskóli trjáviðarkaup fljótaskriptin brjóstadúkur dengslishamar.

32.

ó-grein-i-leg-ur ó-þol-in-móð-ur auðsjá-an-leg-a bý-flugn-a-drottn-ing hlýind-a-leg-ur smá-mun-a-sam-ur marmarahella metaskálirnar velgjörðamaður viðkunnanlegur vináttusamband vísindamaður peningakistill hamingjuleysi guðspjallamaður sárgrætilegur sómatilfinning framkvæmdarsamur hjóðfjærasláttur æskumaðurinn auðnuvegurinn.

33.

ó-að-finn-an-leg-ur ó-við-ráð-an-leg-ur ept-ir-tekt-a-leys i auð-virð-i-leg-ast-ur austurálfuþjóðir fyrirferðamikill fyrirhafnarsamur milligöngumaður náttúruvísindi hengimænulegur brjóstumkennanlegir

———————— —

## HELZTU AÐGREININGARMERKI ERU:

34.

, **högg** eða **komma**; á að hika ofurlítið í lestrinum við það.

; **depilhögg** eða **semíkólon**; við það á að hika meira en við högg.

. **depill** eða **punktur**; á við hann að hika svo sem svarar andartaki.

: **tvídepill** eða **kólon**; hafður á undan því, þegar eitthvað er tilfært orðrjett.

! upphrópunarmerki; haft þegar kallað er.

? spurningarmerki; haft þegar spurt er.

' úrfellingarmerki.

— þankastrik.

- samteingingarmerki.

:,: ítreknnarmerki.

() innilokunarmerki.

§ greinaskiptamerki.

„ tilvitnunarmerki.

† dauðamerki.

☞ ávísunarmerki.

HELZU ÚTLENDIR STAFIR ERU:

35.

**C, c** (sje); er kveðið að því eins og k-i þegar samhljóðandi eða a, o og u eru á eptir því t. d. punctum, comma, en eins og s væri þegar e, i, æ, y eru á eptir því t. d. Cicero.

**Ch, ch**; að því á að kveða eins og k væri t. d. Christus.

**Q, q** (kú); helzt haft á undan v og framborið eins og k.

**Ph, ph**; borið fram eins og f, t. d. Stephán.

**t** á undan i er borið fram eins og ts ef annar hljóðstafur kemur á eptir t. d. auction (áksíón).

**Au, au**; er borið fram eins og á.

**Ou, ou**; eins og ú

**Æ, æ**; er í útlendum orðum borið fram eins og e t. d. Cæsar.

---

36.

Ef þið hafið verið iðin börnin mín góð! síðan þið fóruð að stafa, þá eigið þið nú að vera komin svo langt á leið, að þið getið stautað þetta, sem á eptir kemur; verður það skemmtilegra en það, sem á undan er komið, og eigið þið að bera ykkur að komast uppá að lesa það viðstöðulaust, því annars getið þið ekki tekið eptir því eins vel og þarf til að geta skilið það til fulls, en ekki er til neins að þið lesið, nema þið skiljið það, sem þið lesið; ætla jeg að segja ykkur frá ýmsum hlutum, sem mjer þótti, gaman að fá þekkingu á, þegar jeg var á ykkar aldri og síðan gefa ykkur ýmsar gagnlegar reglur, sem góður maður kenndi mjer, þegar jeg var lítill. Takið þið nú ofboð vel eptir og spyrjið foreldrana ykkar um það, sem þið skiljið ekki, þá mun ykkur fara fram.

37.

Fyrst ætla jeg að segja ykkur nokkuð um manninn; er hann að vísu eitt af dýrunum, en ekkert dýr er þó eins veglegt og hann og er hann þeirra lang æðstur. Það er líkaminn, sem hann hefur eins og dýrin, en líkami hans er þó miklu fagrari og fullkomnari en dýranna, því fyrst og fremst er hann upprjettur, þar sem líkami dýranna er niðurlútur; maðurinn getur því horft upp í hæðirnar; virt fyrir sjer hina fögru himinhvelfingu með öllum hennar dásemdum og litið allt í kringum sig; það eiga dýrin mjög erfitt með, því þau eru svo álút, eins og þið sjáið sjálf, þegar þið gætið að.

Maðurinn getur sjeð með augunum, heyrt með eyrunum, fundið til, hvar sem komið er við hann, fundið bragð að því, sem hann lætur uppí sig, og lykt af því, sem hann ber upp að nefinu á sjer; þetta

geta dýrin einnig því þau hafa einnig fimm skilningarvit, sem sje sjón, heyrn, lykt, smekk og tilfinning.

Mennirnir geta látið það í ljósi hver fyrir öðrum, sem þeir hugsa, finna, óska sjer og áforma, gjöra menn það með orðunum sem menn tala, en dýrin geta það ekki, því þau geta ekki talað, þau hafa ekkert mál, og eru því kölluð mállaus.

En það er nokkuð meira en málið, sem mennirnir hafa framyfir dýrin; þú getur til dæmis munað margt af því, sem þú hefur sjeð og heyrt, ef þú hefur tekið vel eptir því; þú getur ímyndað þjer, eða sjeð í huga þínum föður þinn og móður, þó þú sjáir þau ekki með augunum. Þetta eru fullkomleikar hjá þjer, en þeir eru ekki í líkamanum, heldur í sálu þinni, sem er andi og sjest þessvegna ekki, og heita þeir sálargáfur. Með sál þinni sjerðu til hvers

hvað eina er nytsamlegt, með henni sjerðu vegna hvers það er betra að skera grasið upp á sumrin með ljá, sem festur er í orf, eða að slá það, en að skera það með hníf eða að klippa það með skærum; með henni geturðu jafnað saman tveimur hnífum og sjeð hvort annar er fallegri en hinn, og hefirðu til þees gáfu sálar þinnar sem heitir skilningur. Með sál þinni hugsar þú bæði um það, sem þú ert að gjöra og um það, sem kom fyrir þig í gær; þú getur líka með sálunni hugsað um það, hvað þú skulir gjöra seinna í dag eða á morgun; ef þú gætir ekki hugsað, þá gætirðu ekki heldur lært að lesa eða skrifa, því til þess útheimtist hugsun; þá gætirðu ekki heldur sagt neitt skynsamlegt, því það geta menn ekki nema menn hugsi það sem menn tala. Þú talar við foreldra þína og systkini og svarar spurningum þeirra, og gjörir þú það án þess að hafa lært

svörin fyrst; þú gatst það ekki, því þú vissir ekki fyrir hvað þau mundu segja heldur hugsarðu með sálu þinni um það, sem þú heyrir og svarar því svo.

Þegar þú hugsar eptir því, hvað mikið gott foreldrar þínir hafa gjört þjer, þá getur ekki hjá því farið, að þú finnir að þjer þykir ógnar vænt um þau; þú finnur innra hjá þjer að þú elskar þau, en elskan er ein af tilfinningum sálarinnar, eru þær mikið fleiri til dæmis þakklátsemi við þá sem gjöra okkur gott, örlæti, öfund, hatur og svo framvegis.

En af því þjer þykir svona vænt um foreldra þína, þá ásetur ðu þjer að vera þeim gott og hlýðið barn, og til þess hefur þú þá gáfu sálarinnar, sem heitir vilji. Þú ásetur þjer að þú skulir vera iðinn að lesa, þá færðu líka lof og verður kallaður viljugur og námfús, þar sem hin börnin, sem ekki vilja læra að lesa, eru kölluð letingjar, og þau

læra ekki að lesa fyr en seint og síðar meir.

Ekkert af þessum yfirburðum hafa skepnurnar, geta þær ekki hugsað eptir neinu eða sjeð til hvers nokkur hlutur er nytsamlegur, þær eru því kallaðar skynlausar. Vegna þessara yfirburða sinna er maðurinn settur yfir allar aðrar skepnur, má hann hafa þær allar sjer til gagns og nota, en á í staðinn að fara vel með þær.

38.

Fyrsta góða reglan sem jeg gef ykkur, er sú að fara jafnan snemma á fætur; ef þið gjörið það, getið þið sjeð, heyrt og lært margt, sem þið annars gætuð ekki fengið þekkingu á; svo verðið þið miklu fjörugri og ánægðari, þegar þið gjörið það, en þegar þið liggið í rúminu fram eptir öllum degi, því það gjörir ykkur lin og niðurdregin. Gaman er að koma snemma út á vorin og sumr-

in, og er það þá margt, sem fyrir augu og eyru ber; fyrst er túnið fagurgrænt að mestu leyti, enda þótt aðrar jurtir og grös prýði það stundum með öðrum litum, svo sem sóleyjar og fíflar. Grösin geta ekki hreift sig eða fært sig úr stað en þau eru þó öll lifandi og þurfa fæðu með, draga þau fæðu sína úr áburðininum sem á er borinn á haustin. Til þess að grasið geti sprottið vel, þarf að mylja áburðinn vel *ofaní* jörðina, ef svo kemur rigning og sólskin til skiptis, þá sprettur vel og er því líkt veður gott grasveður. Þegar grasið er orðið fullsprottið, er það slegið og þurrkað og haft svo til fóðurs handa skepnunum, því annars gætu menn ekki haft skepnurnar ef heyið ekki væri.

En þið sjáið líka fleira en fallegu grösin; þið sjáið á vorin ærnar með litlu fallegu lömbunum sínum og svo kýr og hesta; þetta eru allt saman ferfætt dýr, sem hreifa sig úr stað með því að ganga,

og geta þau sjálf leitað sjer fæðu. Það geta fuglarnir líka, sem þið heyrið fallega söngin til og sjáið stundum á hreifingu; en þeir hafa ekki fjóra fætur eins og ærnar og kýrnar, heldur tvær fætur og tvo vængi; hreifa þeir sig með vængjunum og fljúga optast langt fyrir ofan höfuðin á ykkur; þó geta þeir gengið líka, eins og þið sjáið á haustin, þegar lóurnar eru að hópa sig á túnunum. Þá sjáið þið líka flugur og fiðrildi fljúgandi hópum saman, þegar gott er veður.

39.

Þetta eru allt skynlausar og mállausar skepnur, en hafa þó skilningarvit, sem þið vitið hvað eru mörg og hver; mikill er samt munur á skepnunum, eins og þið sjáið sjálf og er þeim eptir þessum mismun skipt í ýmsa flokka, sem eru spendýr, fuglar, fiskar, ormar og skorkvikindi.

Spendýrin eru nefnd svo af því

þau hafa júgur með spenum á, fæða þau afkvæmi sín lifandi t. d. ærin lifandi lamb, kýrin kálf og hryssan folald, og fæða þau þessi afkvæmi sín fyrst framan af á mjólkinni úr júgrinu á sjer; þau hafa líka rautt og heitt blóð, eins og þið sjáið, þegar verið er að slátra á haustin, og eru flest þakin ull eða hári.

Blóðið í fuglunum er eins og í spendýrunum, en þeir fæða ekki lifandi afkvæmi heldur verpa þeir eggjum, liggja síðan lengi á þeim og halda þeim volgum þangað til lifandi ungi kemur út úr þeim; fylgir hann svo foreldrum sínum. þangað til hann getur bjargað sjer sjálfur. Já, gaman er að finna fuglahreiður á vorin. Fuglarnir eru þaktir fiðri og dún.

Á fiskana hefi jeg ekkert minnzt við ykkur enn þá, þeir lifa í sjónum og vötnunum, geta þeir hreift sig, þó þeir hafi enga fætur og gjöra þeir það með uggunum og sporðinum; er sagt að þeir

syndi og hreifing þeirra kölluð sund. Blóðið í þeim er rautt og kalt, þeir leggja eggjum, sem eru kölluð hrogn, en þeir liggja ekki á þeim eins og fuglarnir, heldur skilja við þau, þegar þeir eru búnir að leggja þeim; samt kviknar úr hverju hrogni ofur lítill fiskur, sem svo smá stækkar. Fiskarnir eru þaktir hreistri.

Um orma og skorkvikindi hefi jeg ekki annað að segja ykkur, en að þau eru öll ormar fyrst, en verða síðan að flugum og fiðrildum, og lifa þessar skepnur ekki nærri eins lengi og hinar, margar ekki nema einn dag.

40.

Mikil ógnar not hafa mennirnir af þessum skepnum. Af spendýrunum þekkið þið bezt kindur, kýr og hesta og þar að auk hunda og ketti og er þetta allt til gagns hvert á sinn hátt. Úr kindunum og kúnum fáum við mjólkina góðu, og er aptur búið til úr henni skyr, smjör

og ostur. Úr ullinni af kindunum er búinn til mestallur klæðnaður manna en skinnið af kindum, kúm og hestum hafa menn í skó og til ýmislegs annars. Á hestunum ríða menn og eru fyrir það miklu fljótari í ferðum en þeir annars væru, og auk þess miklu ólúnari; svo eru þeir líka hafðir til að bera á; eru þeir hestar kallaðir áburðarhestar, en hinir, sem hafðir eru til reiðar, reiðhestar. Hundarnir hjálpa til að verja völlinn og engjarnar; þeir eru einnig til mikils gagns fyrir smalana. Kettirnir veiða mýsnar.

Af fuglunum hafa menn og mikið gagn; menn borða egg þeirra og kjöt, en hafa fiður og dún þeirra í sængur og kodda og er það gaman að hvíla sig á þeim, þegar menn hafa unnið vel á daginn og eru orðnir lúnir. Fiskinn borða menn líka bæði blautan og harðan, svo er líka lýsið úr honum gagnlegt til ljósmatar og fleira.

Jeg ætla nú ekki að segja ykkur meira um skynlausu skepnurnar, en ætla að endingu að fullvissa ykkur um það, að þær eru allar gefnar mönnunum til einhvers gagns og nota, en mennirnir verða aptur á mót að gæta þess að fara vel með þær og vera góðir við þær, annars gjöra skepnurnar ekki hið til ætlaða gagn.

41.

Heimurinn eða veröldin er bæði himin og jörð, og allt sem í þeim er. Á himninum er sólin blessuð og tunglið og allar hinar fjölda mörgu stjörnur. Jörðin, sem við búum á, er ein af stjörnunum, og fær hún hita og birtu frá sólinni, því sjálf er jörðin dimm og köld. En margar eru stjörnur eins og jörðin okkar og hafa þær sínar sólir til að verma sig og uppljóma, og tungl, sem lýsa þeim á nóttunni.

42.

Jörðin okkar myndast af vatni og

landi eða þurrlendi; vatnið nær yfir miklu meira svæði af jörðinni en þurrlendið, og er hinn mesti hluti vatnsins kallaður haf eða sjór, og er það salt vatn. Í sjónum veiða menn fiskinn, og ferðast menn um hann á skipum, sem flest eru búin til úr trje en sum úr járni. Auk sjávarins er líka á jörðinni ósalt vatn og er það í stöðuvötnum ám og lækjum. Þurrlendið er ýmist lágt eða hátt; er landið optast nær lágt við sjóinn og vötnin, en hækkar eptir því, sem frá því dregur; eru þá sumstaðar há fjöll, sem ná lengst upp í loptið og gýs stundum eldur upp úr sumum þeirra og brennheit leðja, sem kemur af eldi innaní jörðinni.

Þurrlendið á jörðinni skiptist í fimm hluti, sem heita: norðurálfa, austurálfa, suðurálfa, vesturálfa og eyjaálfa, eru mörg lönd í hverri álfu og eru mennirnir í þeim ekki allir eins að útliti. Ísland, eða landið okkar er í norð-

urálfunni, og eru þeir menn, sem í henni eru, hvítleitir á hörundslit eins og við, en þeir, sem búa í austurálfunni, eru gulmórauðir á lit; í suðurálfunni eru menn-irnir hrafnsvartir, í vesturálfunni jarpir eða eyrrauðir og í eyjaálfunni dökkmórauðir.

43.

Dagur og nótt heitir hvort fyrir sig dægur, en hvorutveggja til samans sólarhringur, af því jörðin snýst á einum degi og nótt í hring líkt og skopp-arakringla, svo sólin skín í kringum alla jörðina á hverjum sólarhring; er þá há-degi hjá okkur, þegar sú hlið jarðar-innar, sem við erum á, blasir við sólinni, en degi fer hallandi eptir því sem sá hluti færist fjær henni, og er nótt þegar sá hluti jarðar, sem er andspænis okkur hinu megin á jarðarhnettinum þ. e. a. s. í vesturálfu blasir við sólunni, svo þegar við förum að hátta, fara þeir, sem þar eru, að klæða sig. Dagur og nótt til

samans er líka kallað **dagur,** eru tuttugu og fjórar klukkustundir í slíkum degi, og sjö þvílíkir dagar í **viku,** heita þeir: **sunnudagur, mánudagur, þriðjudagur, miðvikudagur, fimmtudagur, föstudagur, laugardagur.** Fjórar vikur eru kallaðar **mánuður;** tólf mánuðir eru í **ári** hverju og heita þeir: **janúar, febrúar, marz, apríl, maí, júní, júlí, ágúst, september, október, nóvember, desember;** hafa janúar, marz, maí, júlí, ágúst, október og desember þrjátíu og einn dag, en apríl, júní, september, og nóvember þrjátíu og febrúar tuttugu og átta, og getið þið fest þetta í minninu með vísu þessari:

ap, jún, sept, nóv þrjátíer
einn til hinir taka sjer
febrúar tvenna fjórtán ber
frekar einn þá hlaupár er.

Þegar við nú teljum saman dagana í öllum mánuðunum, fáum við dagana í árinu og verða þeir þrjú hundruð sextíu og fimm, og þrettán tuttugu og átta dagar eða vikumánuðir í ári; en þrjú hundruð sextíu og sex dagar eru í hlaupári, sem er fjórða hvert ár, eða þegar ártalinu verður skipt með fjórum. Ár er sá tími, sem jörðin þarf til að snúast einusinni kringum sólina; blasir á þessum snúningi sumt af jörðinni stundum betur við sólinni en sumt, svo þar verður þá heitara og bjartara, og myndast við þetta árstímarnir, sem eru: vetur, sumar, vor og haust; er sumar og vor til samans og vetur og haust; sömuleiðis kallað missiri, og eru sex mánuðir í hverju missiri, er vorið síðasti hluti vetrar og fyrsti hluti sumars, en haustið síðasti hluti sumars og fyrsti hluti vetrar. Sumar byrjar seint í aprílmánuði og er sumardagur fyrsti jafnan

fimmtudagur, en sumar endar á föstudag og er næsti laugardagur á eptir fyrsti vetrardagur.

Þegar sólina á gangi jarðarinnar kringum hana ber beint yfir hring þann á jarðarhnettinum, sem kallaður er steingeitarbaugur, er lengstur dagur á suðurhluta jarðarinnar; þá er þar sumar; en stytztur er þá dagur hjá okkur, og er það þrem dögum fyrir jólin, en eptir því sem sólina ber norðar og norðar yfir, eptir því lengir daginn hjá okkur og verður bjartara og hlýrra, og þegar sólina ber yfir hinn svonefnda krabbabaug, sem er hinn nyrðsti staður, sem sólin stendur beint yfir, þá er heitast hjá okkur og lengstur dagur og er þá sumarsólstöður; þær eru tuttugasta og fyrsta júní, en þegar stytztur er dagur, eða þrem dögum fyrir jól eru kallaðar vetrarsólstöður. Á þessari ferð sinni kringum sólina er jörðin dálítið lengur

en þrjú hundruð sextíu og fimm daga; er hún sex klukkustundum lengur, og þessum sex klukkustundum er á hverjum fjórum árum steypt saman í einn dag, sem er settur aptan í febrúar; verða þá tuttugu og níu dagar í honum og er þá kallað hlaupár.

44.

Helgidagar og hátíðir á ári hverju eru **jólin** 25 desember, eru þau haldin heilög í minningu um fæðingu Krists. Átta dögum síðar er **nýjárið**; er það fyrsti dagur árs hvers og ber jafnan uppá fyrsta janúar þann dag var Kristi gefið nafn. Þá er næsta hátíð **páskarnir**, sem er haldin heilög í minningu um Krists upprisu; er fyrsti dagur páska jafnan sunnudagur og í minningu um Krists upprisu halda kristnir menn líka helgan hvern sunnudag, sem er fyrsti dagur viku hverrar. Næsti fimmtudagur fyrir páska er kallaður

**skírdagur**, og er haldinn heilagur í minning um innsetning kveldmáltíðarinnar; föstudagurinn eptir er kallaður **föstudagurinn langi** og haldinn helgur í minning um Krists pínu og dauða. Föstudagurinn næst á eptir þriðja sunnudag eptir páska er haldinn heilagur svo sem almennur bænadagur og kallaður **kongsbænadagur**. Fjörutíu dögum eptir páska er **uppstigningardagur**, þá stje Kristur upp til himins og tíu dögum síðar er **hvítasunnuhátíðin** í minningu um það, að heilagurandi kom yfir postula Krists.

45.

Orð þau sem menn telja með, eða segja hvað margt sje af einhverju, kallast töluorð til dæmis: einn, tveir, þrír o. s. frv.; er til stafur eða stafir til að rita með hvert töluorð, og heita þeir t ö l u s t a f i r. Tölustafir eru alls tíu, en

menn geta þó með þeim skrifað allar tölur hvað stórar sem eru, þessir tíu stafir eru:

| 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 | 7 | 8 |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| einn | tveir | þrír | fjórir | fimm | sex | sjö | átta |

| 9 | 0 |
|---|---|
| níu | núll. |

Þessir tölustafir heita einingar, af því þeir eru ritaðir einungis með einum staf; en það eru líka tölur til, sem eru skrifaðar með tveim stöfum, og heita þær tugir, eru tugirnir þessir:

| 10 | 20 | 30 | 40 | 50 | 60 |
|---|---|---|---|---|---|
| tíu | tuttugu | þrjátíu | fjörutíu | fimmtíu | sextíu |

| 70 | 80 | 90 |
|---|---|---|
| sjötíu | áttatíu | nítíu, |

og er hjer alstaðar rjettur tugur, en í stað núllsins má líka hafa hverja af einingunum, sem vera skal og merkir þó fremri talan allt að einu tugina eða tugafjöldann til dæmis:

25 tuttugu og fimm

99 nítíu og níu o. s. frv.

þá eru til tölur skrifaðar með þrem

stöfum, heita þær hundruð, og getur þá annað hvort staðið rjett á hundraði, og er þá svona skrifað:

**100** eitt hundrað **200** tvö hundruð **300** þrjú hundruð

**400** fjögur hundruð o. s. frv.;

eða tugir og einingar eru með, þannig: **425** fjögur hundruð tuttugu og fimm **789** sjö hundruð áttatíu og níu.

Enn eru tölur ritaðar með fjórum stöfum og heita þær þúsundir, getur þá annaðhvort staðið rjett á þúsundum t. d. **7000** sjö þúsundir, eða hundruð tugir og einingar verið með t. d. **2859** tvær þúsundir átta hundruð fimmtíu og níu; en fimm stafa tölur tákna tíu þúsundir, sex stafa tölur hundrað þúsundir og sjö stafa tölur þúsund þúsundir eða milíón t. d. **5,768,934** fimm milíónir sjö hundruð sextíu og átta þúsundir níu hundruð þrjátíu og fjórir; merkir

þá aptasti stafur eining, næsti fyrir framan tug, næsti hundruð, næsti eining í þúsundum, næsti tug í þús., næsti hundruð í þús. og næsti eða hinn fremsti eining í miljónum. Til að festa þetta í minni sjer er höfð vísa þessi:

sig mest merkir hinn fyrsti,
mann tíu kvað annar,
hundrað þýðir hinn þriðji,
þúsund fjórða vel grunda,
tíu þúsund tel fimmta,
tel hundrað þúsund sjötta,
sjöunda mjer klerkar kenndu
að kalla þúsund þúsunda.

Við þessa vísu er það aðgætandi, að hún telur stafina frá hægri hendi eða byrjar aptan á tölunum.

Hinar rómversku tölur eru þessar:

| | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| I | II | III | IV | V | VI | VII | VIII | IX | X |
| 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 | 7 | 8 | 9 | 10 |

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| XI | XII | XIII | XIV | XV | XVI | XVII |
| 11 | 12 | 13 | 14 | 15 | 16 | 17 |

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| XVIII | XIX | XX | XXX | XL | L | LX |
| 18 | 19 | 20 | 30 | 40 | 50 | 60 |
| LXX | LXXX | XC | C | CC | CCC | CD |
| 70 | 80 | 90 | 100 | 200 | 300 | 400 |
| D | DC | DCC | DCCC | CM | M | |
| 500 | 600 | 700 | 800 | 900 | 1000 | |

| | | |
|---|---|---|
| MC | MD | MDCCCLXII. |
| 1100 | 1500 | 1862. |

---

Letur það, sem hingað til hefur verið haft á kveri þessu, er kallað latínuletur, en það er líka til annað letur, sem er kallað gotneskt letur, og verðið þið líka að læra það börnin mín, því það eru svo margar bækur hjer á landi prentaðar með því letri. Stafrófið í því er þannig:

a á b c d e f g h i í j k l m n o
a á b c d e f g h i í j k l m n o

ó p q r s s t u ú v w x y ý z æ ö
o p q r s s t u ú v w x y ý z æ ö

𝔄 𝔅 ℭ 𝔇 𝔈 𝔉 𝔊 ℌ ℑ 𝔎 𝔏 𝔐
A B C D E F G H I K L M
𝔑 𝔒 𝔓 𝔔 ℜ 𝔖 𝔗 𝔘 𝔙 𝔚 𝔛 𝔜
N O P Q R S T U V W X Y
ℨ Þ Æ Ö
Z Þ Æ Ö

og sjáið þið á þessu stafrófi að í það vantar stafina Á Í Ó Ú Ý ð Ð J, svo grönnu hljóðstafina verður stundum að lesa eins og breiða hljóðstafi og I þar að auk stundum eins og J og d eins og ð.

---

*Letur það sem nú kemur heitir skáletur og getið þið æft ykkur á því.*

1.

*Látid mig aldrei heyra það um ykkur börn mín! að þið sjeud löt; letin eydir tímanum til ónýtis, sem vid eigum ad verja til ad vinna eitthvað þarft; hún styttir lífdagana, því hún gjörir oss heilsulausa. Leti er ryð, sem eydir fljótar en vinnan slítur, en brúkadur lykill er bezt skyggdur. Elskirdu lífid, þá*

*eyddu ekki tímanum, því lífið er spunnið úr honum. Hversu mikið missum við ekki einasta fyrir það, að við sofum lengur en við þurfum og hugsum ekki eptir því, að s o f a n d i r e f u r f æ r s j a l d a n b r á ð. Ef nú tíminn er dýrmætastur allra hluta, þá er það hið mesta óhóf að eyða honum til ónýtis, því h o r f i n n t í m a h i t t i r ð u e k k i. Stattu á fætur og starfaðu og starfaðu eitthvað þarft; vertu fljótur til vinnu, þá geturðu afkastað miklu. L ö t u m m a n n i v e r ð u r a l l t e r f i t t e n i ð n u m m a n n i a l l t a u ð v e l t. Sá, sem fer seint á fætur, fær aldrei lokið starfa sínum; áður en hann er kominn til vinnu er farið að rökkva. Letin er svo sein að örbyrgðin nær henni fljótt. Snemma á fætur og snemma að hátta, það veitir þjer góða heilsu, auðlegð og hyggindi. Sjertu i ð i n n, verður þjer ekki sultur að bana, því s u l t u r i n n k e m u r á g l u g g a n n hjá i ð n i s m a n n i n u m e n a l d r e i i n n f y r i r d y r; i ð n i n e r m ó ð i r g æ f u n n a r, og a l l t g e f u r G u ð þ e i m i ð j u s a m a, því G u ð h j á l p a r þ e i m, s e m h j á l p a r s j e r s j á l f u r. Dragðu það ekki*

*til morguns, er þú getur gjört í dag; vertu kvikur við vinnu þína, en klemmdu ekki saman fingurna. Ef kötturinn hefði vetlinga, veiddi hann ekki mýs. Vertu fastur við það, sem þú tekur fyrir hendur, þótt það veiti erfitt í fyrstu; dropinn holar steininn, og smá högg fella stór trje.*

2.

*En iðnin er ekki einhlýt börnin mín; menn verða líka að vera stöðugir og aðgætnir og líta sjálfir eptir sínu. Sjaldan þrífast þeir sem opt flytja sig, og eru þrír flutningar á við húsbruna. Augu húsbóndans sjer bezt og eru augu hans betri en báðar hendur hans. Lítið hirðuleysi gjörir opt mikið tjón; af naglaleysi týndist skeifan, af skeifuleysi hesturinn, af hestleysi riddarinn; óvinur hans náði honum og drap hann; það kom allt af því að hann hirti ekki um hestsskónaglann; aðgætnin er því eins nauðsynleg og iðnin.*

3.

*En við verðum líka að ástunda spar-*

*somi, ef nokkur eiga not að verða af iðninni, og megum ekki láta ágóðann af vinnu vorri fara mestmegnis fyrir óþarfa. Við skulum því takmarka óþarfa kaupin og munum við þá ekki þurfa að kvarta svo mjög yfir aldarfarinu. Víndrykkja og fleira óhóf fer verst með okkur, og er það nóg handa tveimur börnum, sem ein heimska kostar. Varaðu þig á smá óþarfunum, því margt smátt gjörir eitt stórt, og lítill leki sökkur stóru skipi. Kauptu ekki, það sem þú þarft ekki, svo þú neyðist ekki til að selja það, sem þú þarft; með því eyðast efni þín, þótt nokkur sjeu í fyrstu, því takir þú alla jafna úr mjöltunnunni og bætir engu í aptur, muntu bráðum botninn sjá; þá verðurðu að fara að kaupa mjöl, en hefir ekkert að kaupa fyrir, því það fór fyrir hitt, sem þú þurftir ekki við; verðurðu þá að fara að taka til láns, en fjárlán er gleðirán. Fljúgðu ekki hátt, svo þú fallir ekki niður í saurinn; varastu hjegómasemina, stældu ekki eptir höfðingjunum, svo ekki fari fyrir þjer eins og vatnspödduuni,*

*sem ætladi að þenja sig út, svo hún yrði eins stór og kýr og sprakk svo.*

4.

*Þetta er nú það, sem skynsemi og reynsla kenna, en treystið ekki ofmjög iðni, sparsemi og framsýni; það eru allt góðir kostir en geta brugðizt, þegar Guðs blessun vantar. Biðjið því Guð auðmjúklega um þessa blessun, og verið ekki harðgeðja við þá, sem ykkur þykir vanta hana um stundarsakir; huggið þá heldur og hjálpið þeim eptir megni.*

*Gætið nú þessara góðu ráða börn mín! og minnist þess, að sá sem ekki tekur góðum ráðum, honum verður öll hjálp að engu; viljirðu ekki læra, verðurðu að þreifa á.*

*Mundu það, að gjöra öðrum það aldrei, sem þú vilt ekki láta gjöra þjer.*

---

Kverið kostar 20 sk. innbundið; hver sem kaupir 4 expl. fær hið 5. ókeypis.

